Stutt ágrip

um

# Jardeplanna Nytsemd og Ræktan,

samantekid

af

Jacob Kofoed Trojel,

Capellane i Vissenberg á Fione,

og sendt

þvi Konunglega Danska

Landhusholdnings Sælskabi,

samt utdeilt til almennings nota á Islande,

og

uppá þess Kostnad prentad.



I Kaupmannahøfn,

ár 1772, af Brødrene Berling.

Konunginum
og
Födurlandinu.

# Sælskabsins Formæli.

Eingi þorf er at þvi ad Sælskabid, segi i hveriu skini þad hefir utgefid þetta stutta ægrip um Jardepla vøxtinn, er þess Verdugi svarandi Medlimur Velæruverdugur Presturinn Sira Jacob Kofoed Trojel hefir sendt þvi og samanteked, søkum þess ad sialft ægripsins Innihalld og Sælskabsins eigin frambodnu Verklaun fyrir ædur greindra Epla dyrkan bera noglega vitni um hvarfyri þad hefir giort verid.

Sælskabid er nu þegar komid ad raun um, ad bæde i Dan-mørk, Noregi og a Islandi tekur Jardepla ræktin ad fara i vøxt og utbreida sig meir og meir; þad óskar þvi ecki einasta ad sama mætti vel lukkaz, helldur og einnig ætlar þad med verklaunum ad upphvetia folk til ad efla og auka vid þad sem komid er.

Þess vegna utbitir þad og nu strax þessum Bæklingi sem bygdur er a eigin reynslu og faafrodum bændum er olldungis omissandi, sakir þess ad þar af maa læra rett, fliott og med aabata ad saa, planta og færa ser i nyt Jardeplin i þessum Nordurlondum.

I þaa adra Edition af þessum Bækling, ef hennar skylldi medþurfa, hefir Sælskabid aasett ser ad innfæra allt þad sem markverdugt og nytsamlegt kynni i lios leidaz um þenna Jardaraavoxt, og einkanlega ef einhverr gæti med stærri aabata enn aadr er sked, fært ser sama til nota.

Ad lyktum recommenderar Sælskabid sina Fyritekt med utgaafu Bæklingsins og adrar þess Framquæmdir sinum velþenkiandi Medborgurum, hverra umsorgun og Kærleika þad daglega ser fara vaxandi og verda almenniligan i ollum Konungsins Rikium og Londum.

---

Inngan-

# Inngangurinn.

Saa Utlendske Jardar aavøxtur, nefnelega Kartoflurnar, hverra bustadur eiginlega hefir verid i Peru, hvadan þær eru komnar og fluttar inn i Nordurаalfuna, ætti vissulega sakir sinnar margfølldu nytsemdar og frioseme med grangæfne ad yfirvegaz af alþydu, en þo einkum øllum Sveita-bændum.

Tiedur aavøxtur er fyri nokkurum aarum ordinn kunnur i enum dønsku Løndum, og hafa menn þad ad þakka Profastinum Sira Lüder i Glücksborg ad mestu leiti, hver og einnig i mørgum ødrum postum hefir giørt sinu Fødurlande mikid gott.

Þaa er eg hafde fengid ad vita hversu vel hønum gekk, þotti mer vænt um, og fekk mer Kartoflufræ hiaa þessum goda Manni; reyndi

sidan til i nokkur aar samfelld ad laata þenna aavøxt vaxa, og hefir þad tekiz allvel. Minum fotsporum hafa adrir fylgt, svo ad Jardeplin her aa Jioni eru sumstadar mikid brukanleg ordin, og til storra nota; en þo sokum þess þau ecki voru svo almenn sem ad visu vera ætti, þaa let eg þegar prenta aarid 1766 litinn Bækling um þesshaattar, sem vonum braadar tvistradiz hingad og þangad gefins. Og med þvi eg hefir ekki efni til ad utdeila svo miklu sem med þarf til almennings nota; svo gledz eg eigi allitid vid, ad þad Konungliga Landhuusholdnings Sælskab hefir lofad ad laata þenna minn frambodna Eplabækling verda af almenningi brukadan, ef hann felli þvi vel i ged.

Eg hefi þar fyrir aasett mer i þessu kvere ad segia skilmerkiliga fraa, hvernig menn eiga ad koma Jardeplunum til ad groa, og sidan hvar til þau brukaz.

---

Fyrsti



# Fyrsti Capitule.

Um

# Jardepla-fenginn.

Eg kalla her þenna avoxt Kartoflur, annars heitir hann almenniliga Patætur, iafnvel þott nafnid eiginliga tilheyri einni Vestindiskri Urt, er kallaz Convolvulus Batatas, edur Vermudiskar Patætur. Menn kynnu ad kalla avoxtinn Jardeple, þvi þad somir ser vel a vora tungu. Þannig heita þær og sumstadar i Þydskalandi; en adrir meina þar med enar svo kolludu Jord-Artiskokker (a), sem nokkurir ad sonnu þekkia, en eru þo ei til storra nota. Ad nokkura Þydskra og Svenskra dæmi mætti þær og svo heita Jardperur; þo veit eg eigi Orsok þar til, þvi þetta Nafn getur eiginliga ecki heimfærst nema uppa eina serdeilis tegund þaraf, sem er lengri enn Nafnid.

 hinar

(a) Helianthus tuberosus Linn.



þinar. Eg vil her iafna bruka Nafnid Kartoflur.

Skiring þessarar urtar og þennar ymsra tegunda.

Kartoflur er ein Jurt, sem af Jurtaspekingum kallaz Solanum tuberosum, og af sumum Esculentum: hun hefir at sei margar greinir, og ber blomstur og mikid fræ, og breidiz aukasliga ut vid rotina. Af þessari Urt eru margar tegundir: eg vil utmaala þær sem eg þekke, og hefi giort einhveria raun med. Þær eru þessar:

Hnøttottar raudar bera bleiklifraud Blomstur.

Langar raudar bera hvit Blomstur.

Hnøttottar gular, ellegar Hollendskar bera og svo hvit Blomstur.

Flatar gular, edur Engelskar bera lifraud Blomstur.

Litlar gular, sem folk helldur ad se Irlendskar (b) edur þær svo nefndu Kastaniu Patætur er bera blaa Blomstur.

Su

(b) I eingu Landi eru fleiri Tegundir af Kartoflum edur Patætum enn i Irlande, og þar aa medal eru og svo þær Litlu gulu, og iafnframt i siaalfu Englandi. þvi i Lancashire er ætid saad nyum Irskum Patætum, og þær bestu Irsku taka einnig þar vid storum framførum.

Su sidasta Tegund er hordust, smakkar best, og syniz þessvegna fremur ollum hinum ad vera ætlud monnum til vidurlifis.

Jurtin er ad sonnu friodsom enn þar ed avoxturinn optastnær er litill, og menn eiga mikid bagt med ad taka hann upp af Jordunne, vegna þess ræturnar flækiaz saman; þa vil eg ei rada neinum til ad sa miog miklu af þessari tegund, utan ef madur getur sellt daglega nokkud toluverdt.

Hinar adrar Tegundirnar, sem allar eru stærri og miolrikari, samt nytsamligri til ymsra budrygginda, og einneigin til geymslu, ættu þvi hellst ad rækaz. Eftir nockurra ara raun hefi eg þreifad a, ad enar hnøttottu gulu edur Hollendsku eru abatameiri enn sierhvor af þeim Raudu tegundum; En med þvi eg hefi lært ad þekkia og profa þa Engelsku, þa verd eg ad virda hana meir, vegna þess hun dafnar mikid fliotara, og er fullvaxta fyrr enn hinar adrar; ja, þar ad auke til allrar brukanar nytsamleg.

Kartoflur vaxa i allslags Jord, sem ei er allt ofhord, þung eda rakasom; þo er laus og lett Sand- og Molldar Jord hin besta; ja, eg hefi iafnvel sed Jurtin- *Jardarinnar æskilig lag.*

 ni



ni sáð uppí á hörðum og þurrum sand-hoolum, og for það ollu vel.

Item Tilbuningur. Því lausare og ófeigare sem Jordin er, þess yfirfliotanlegri ávöxtur er í vændum (c). á haustin hlýtur maður að plægja Jordina einnusinni eða tvisvar, og aptur tvisvar (d) á vorin. Hvert sinn áður enn plægt er að nýu, er nauðsynlegt að harvað se, þo eigi utan í þurvidri.

Plöntunar reglur. Su retta aðferð að planta Kartoflur er í því innifalin, að þá er buið er að plægia síðsta sinni, dregur maður snæri yfir um þveran akurinn, með svo mörgum hnutum eður merkium á, sem álna talan er. Síðan er tekinn hæll eða spaði, og stungnar holur í Jordina, her um 4. eður 5. þumlunga diupar; og má ecke minna enn álnar bil vera milli hvervar holu; þar í er lögð annaðhvart ein stór (e), ein meðelmáta, ella tvær eða fleiri litlar Kartoflur, og þakið síðan með mold

(c) Regnið nær betur að samblandaz Jörðunni þegar diupt er plægt; og þarfyrir græ Jurtin miklu betur.

(d) Í Englande bera mennú, og plægia niður snemma voris vel funa og gamla mykiu, í því skini að ávöxturinn verði meiri.

(e) Fáar stórar Kartoflur slá meiri rotum í ánægianlegri Jörð, enn margar litlar í minni Jörð finnaz bágara og hindra líka efttirkomanda árs vöxt.

mölld ur næstu holu. Myklu gengur verkid fliotara, ef einn fer undan med spadann, og stingur holurnar i akurinn, en annar kemur med Kartoflurnar i skautklædi, og leggur þær nidur sem vera a. Þegar fyrsta rodin er buin, er snærid flutt um eina alin betur upp a akurinn; verdur þa bædi a breidd og lengd 1. alin millum hverrar holu; og er þvi farid fram þangad til akurinn er buinn. Menn kynni an efa ad kasta Eplunum midt i Plogfarid (f) og stilla svo til ad annadhvert plogfar yrdi audt. En med þvi ræturnar uppa þenna mata sidan eru i stærri hættu, og eingan veginn plantaz regulega, sem flytir þo fyri sidarmeir; þa ræd eg helldur til ad bruka fyrst greinda adferd, er ei er svo bag sem menn ætla, adur en nockur tilraun er giør. Akurinn ma ekki rifaz upp eptir þad buid er ad sa, fyrr enn menn hallda ad avoxturen se farinn ad spretta. Komi svo þurr og godur vedurdagur, ma Akur-riifurinn dragaz um Jordina, er þa verdur miklu lausari, og illgresid rætiz upp. Ef um er billt molldinni med Akur-rifnum strax sem buid er ad planta, og kemur sidan regn, þa

(f) Sumstadar i Englandi þa plægt er i ødru sinni er millum plogfaranna hálf ønnur alin, en plog førin eru þo a dypt 7. og stundum 8. þumlungar; þar i eru lagdar ræturnar og huldar molldu; en 18. þumlunga bil audt millum hverrar.



þaa verdur molldin hardari, og ǽdur greint verkfæri getur eigi giört slikt gagn sem annars.

Plöntunar Tidin.

Sidast i Aprili eda fyrst i Majo (g) er Tid ad planta tiedan ǽvoxt, þo mega menn i þvi vera bundnir vid vedrǽttu farid, og adgæta hvart heitt eda kallt er uti, regn eda þurrvidri. Ad planta i regne, ræd eg eingum til, og varla fyrr enn tekur ad hitna i vedrinu (h); ella liggur ǽvoxturinn lengur, og velldur þvi ad Illgresid sprettur þaa odum upp, og kæfir Sædid nidur.

Frekari Jurtarinnar medhøndlan.

Þegar Jurtin er svo vaxta vordin ad hun þekkist fraa audrum, þaa skal losa jordina med þvi breida verkfæri, er kallaz Haki, og er maalad aa fyrri mynd Toblunnar. Þar med verdur Illgresinu utrudt og ǽvoxturinn fær meiri og meiri þroska. Og ad þvi bunu, þristir madur Jordunni upp med hverri plöntu, eins og almennilega er farid med hvitt Kaal. Þetta starf utheimtir eigi miøg mikla ervidismuni; en velldur þo þvi ad bæde verda Kartoflurnar miklu friosamari og jordin hreinari og haganlegri til annara

(g) En i Islande optastnær seinast i Majo eda fyrst i Junio.
(h) Kulldi er þessarar Rotar svarinn ovinur. þegar eigi er ad ottaz fyri frosti i Englandi, er Akurkarlinn fliotur til ad planta Jurtina, einkum þar sem Jordin er þur.

annara sædis tegunda. Þetta er og þad sidasta ervidi þangad til Uppskeran byriaz utan regn eda þurrvidri gangi leingi, þvi þa þurfa menn ad hreifa upp a akrinum ad nyu med adur greindu Verkfæri, og þrista upp med Jurtunum, þo svo varliga ad Eplin skemmiz ecki, er taka ad þroaz vid rotina, undir eins og Jurtin blomstrar.

Menn afkasta annars þessu Verki, til ad spara kostnad og fyrirhofn fliotara, enn adur var greint, med einslags plogi, sem maaladur er aptan vid Bæklinginn med annari mynd toblunar, og Akurkarlinn Olafur Jörgenson i Kaarsbiarge her a Fione hefir fundid upp aan nokkurrar tilhiaalpar og eptirsnids. Fyrir utan þad ad fyri ploginum gengur einn Eykur er hann frraaleitur ødrum i þvi ad Smidurinn hefir giort a hann 2 molldfialir, og plogiaarnid verdur eins a badar sidur. Ardurinn kann eptir maalverksmyndinni audvelldliga ad smidaz; þetta einasta er adgætande, ad a millum molldarfiakanna se ecki lengra a baka til enn er a millum Eplareitanna, sem menn leida hestinn i millum til þess ad þrista iordunni badummegin upp med urtinni. Einngi kann neita at þessi plogur se til mikils gagns, hægri verka, og nyt semdar. En þo er þess gætandi, ad laata ecki miog lengi bida ad hreinsa og losa Jordina i millum Jardeplanna, þangad til Plogurinn

Um Epla ploginn.

 

gurinn verdur brukadur til ad þrísta Jordunni ad; þvi ella þroaz Illgresid i aakafa, og Jurtin missir allra nota af Jardarinnar billtingu. Þar fyri ræd eg, ad madur þegar strax er Jurtin sprettur upp losi molldina med hakanum, sem aadur er sagt; edur taki molldar fialirnar af ploginum, og plægi med plognum alleina, til ad stodva Illgresid og giora molldina lausa, þangad til Jurtin hefir naad þeim vexti ad molldin maa þrístaz ad; og þaa brukar madur ploginn med Fiolunum, sem aadur er sagt.

Uppskerutiminn. Sidast i Septembri eda fyrst i Octobri taka blødin og berin ad verda gul, og er þaa maatulegt ad grafa aavoxtinn upp aadur enn frys aa næturnar.

Enar smaau Irlendsku edur Kastaniu Kartoflur eru undanteknar, sakir þess þær verda ekki fullvaxta fyrr enn i October Maanadi, og þola helldur kulldann af þvi þær eru digrari.

Adferdin. Eingi þorf er aa ad grafa Kartoflurnar upp; miklu hægra er, ef Jordin er lin, ad slita þær upp med ollu; þvi þaa fylgia Eplin med, er skiliaz eiga fraa rotinni. Sidan gæta menn ad i holunum, og rannsaka annadhvort med Hakanum edur Treklaaru, hvart nokkud er skilid eptir.

Þad

Þad sem ætlad er til neytslu innan vetur nætta, mæ geymaz æ lopti uppi, edur annarstadar ef vill; en þad sem æ ad bida til sumar mæla, er best ad grafa i molld. Aalnardiup grof i hætt liggiande þurri Jord er god hirdsla fyrir hversdags Epli. Grøfin skal vera vidari nedan enn ofan sakir vatnsins, og þekiaz til med molldu, og heyi ef menn vilia þegar kallt er. Madur getur og geymt Eplin i Tunnu (i) og hladed ad mylsnu øllum megin: hey og hælmur eru ofgisin ad þekia med vegna kulldans. Vetrar forde.

Sæ er vill geyma meira, ætti ad byggia rumgott hus, og læta þakid einasta standa upp af Jordunni: hlidveggirnir skulu gervir af grioti, svo molldin næi ekki ad falla inn; og þar i hledur madur Eplunum tveggia ælna hætt hverin ofan æ annad eda meir, lætur hælm eda hey i millum þeirra og þaksins, og lykur sidan dyrunum aptur svo ohætt se fyrir kullda.

Æ vorin velur madur storar Kartoflur til ad planta, vegna þess þær almennilega eru betri. J Martio þegar frostinu linar takaz þær upp ur grøfinni, leggiaz ut æ loptid i hælm ok þekkiaz vel, svo Hvernig breyta æ vid Kartoflu sædid æ vorin.

(i) Se Eplin ekki þur, eda i hrugu saman, er hætt vid þau morkni, nema sandur eda þur molld liggi øllum megin.

 

svo þær nái ad groa þess betur til sáð-
tídarennar, en þo mega menn ekki utan
med hofi láta þær vaxa, ádur enn plön-
tunartidin kemur, og þvi er betra an-
nadhvort ad taka hálminu ofan af, edur
planta þær þvi fyrr, svo greinirnar nái
ekki ad brotna edur skemmaz.

Um Fræ-plöntunina.

Kartoflufræid, verdur i þessu Lan-
de optast fullvaxta. Einnig er mögulegt
ad umplanta Jurtena eins og adrar er
ávöxturinn tekur ad gyldna vid rotina;
en sakir þess ad Kartoflurnar á fysta
ári vaxa ekki mikid, og plöntunarstar-
fid er meira enn ervidid fyri siálfu Epla
sædinu; þá er eingi þorf ad safna Fræi-
nu, utan naudsin tilreki, og menn vilie
ódlast ungar Kartoflur.

Epla fengsins ábata og kostnadar Reikningur.

Nokkurir meina, ad Epla fengur-
inn utkrefi ofmikinn kostnad og fyrirhyg-
giu, og þvi hlyt eg ad giora Reikning
uppá Kostnad og ábata i sögdum
posti.

Vili menn planta heilan tunnu-
korns-akur, þá þarf þar til 4 og jafn-
vel 5 tunnur Epla, sem hingat til á vo-
rin ad medreiknudum verrar geymslu-
launum hafa kostad 2 Dali Sl. Courant
hver; kosta 5 tunnur alls 6 Rd. 4 Mk.
edur 2 hundr. $44\frac{4}{5}$ Fiska.

Fyrir





Fyrir ad plægia og sletta Jordina med akurrisnum 4 sinnum, hvert sinn 4 Mk. eru 2 Rd. 4 Mk.
edur ⸗ 113⅗ Fiskar.
Fæda og laun fyrir attra kvennmenn um daginn sierhver 12 Skilding er ⸗ 1 Rd.
edur ⸗ 42⅔ Fiskar.
atta 10, edur 12 vetra ungmenna Fæda og Laun, sem eiga ad þrista molldinni upp med jurtunum, og losa jardar skorpuna; hvers um daginn 8 Skild. er ⸗ ⸗ ⸗ 4 Mk.
edur ⸗ 28⅘ Fiskar.
24ra vinnumanna Laun einn dag 4 Rikisd. er ⸗ ⸗ 4 Rd.
edur 1 hundr. 50⅔ Fiskar.
ællu þessu getur einn vinnumadur med ædur greindum plogi og einum eyk afkastad æ einum degi, og þar fyrir þarf ei Kostnadurinn ad verda meiri enn 1 Rd. edur 42⅔ Fiskar.
Til uppskerrunnar þarf her um 48 Konur og Karla, þad er ad segia

8 Vinnu Menn fyrir 1 Rd. 2 Mk.
edur ⸗ 56⅘ Fiska.
20 Vinnu konur ⸗ 2 Rd. 3 Mk.
edur ⸗ 106⅔ Fiska.
og 20 Ungmenni ⸗ 1 Rd. 4 Mk.

Verdur Kostnadurinn tilsam. 20 Rd. 3 Mk.
edur 7 hundr. 34⅔ Fiskar.

 

og Þegar plogurinn brukast ecke meir enn . . . 17 Rd. 3 Mk. edur 6 hundr. 26⅔ Fiskar.

Greindur akur ber iafnligast 80, 100, 120. og stundum fleiri tunnur Jardepla. Lætum nu vera, ad fyrir eina tunnu, sem ædur hefir kostad 5 eda iafnvel 6 mørk, fæist ecki meira enn 4 mørk, er og ætti þannig ad seliaz ef ævoxturinn yrdi almenniligri; þæ verdur þo akursins grodi herum 53 Rikisdala virdi, og æbatinn, þegar allur Kostnadur er fræreiknadur, yfir 30 Rd. (k) af svo litlum akri.

Mismunur æ Korns og Eplafengnum. Vili menn bera korns og Eplafenginn saman, er mismunurinn audsen. Þad er stor heppni þegar godir Eplaakrar gefa af ser 5 eda 6 faldt. Lætum oss taka Ruginn, sem hinn dyrasta af ollum korntegundum, og meta sem hann nu æ dogum kostar; þæ gefur þo ædur greindur akur alldri meira Rug af ser enn fyrir 24 Rd., sem er þridiungi minna, ad ollum kostnadi ireiknudum, enn æbatinn af Jard-Eplunum; og er þo Rugfengurinn sialldan svo mikill sem nu var rad fyrir gert, þvi i fyrra feck eingin yfir þridiung utsædis, og miklu sidur koma adrar korns tegundir til jafns þar vid. Her ad auki geta menn og plantad Kartoflur i sama akur sem ædur hefir borid

(k) I Islandi er þad adgætandi, ad bædi kostnadur og æbati verdur minni, enn þar fyrir ætti og mætti þo Eplin vera i sinu gilldi.

borid Rúg, og onytur er til annars enn Hafrasædis; misvöxt á Kartoflum er sidur ad ottaz enn korninu sialfu.

Nockrir klaga yfir Foodurmissi á Epla okrunum og hvad skulu menn þar um dæma. Í Þydskalandi sumstadar veit eg ad Jurtin sialf gilldir fyrir gott fodur, en sakir þess menn mega fastan trúnad áleggia ad Jurta slátturinn, einkum hafi þær ecki borid blomstur, velldur miklu illu og hindrar eplavöxtinn, svo ætla eg ecki ad hafa þetta mer til afbötunar, jafnvel þo Jurtin i þessu ásigkomulagi se mikid skemt fodur, og ei annan veg nytandi enn sumud til áburdar; auk þessa er og allur skadi bættur, þar fenadurinn, (sem sidar skal sagt verda) nytur somu Jurtar á añan hátt, og ávöxturinn er yfir gnæfanlegri enn af korninu sialfu; ad eg eigi tali um Jardarinnar goda umbreyting hvar uppá eru dæmi deginum liosari, nefniliga ad sá akur er ecki hefur borid eptir sinu Jardlagi og ársins veduráttufari meir enn fiordung, edur fimtung utsædis, gaf seinna af ser 11 edur 12 falldan groda án nockurs áburdar; vegna þess Kartoflurnar höfdu verid plantadar á honum árid ádur (l) og er svo þannig uttalad um Eplafenginn.



(l) Næsta ár eptir Patæturnar sáir madur i Einglande akurinn med hveiti og fæz sem optast rikulig uppskera.



# Annar Capituli.

## Um Jardeplanna Brukan og Nytsemd.

Uppaa margfalldan maata er hverium bumanni hægt ad færa ser greindan aavoxt til nota.

Til fædu. Þær Irlendsku edur so kolludu Kastaniu-Kartöflur eru smeckgodar og ödrum betri til matar og þvi tilreidaz þar af ymsir rettir med morgu moti. Vid þessa godu, driugu og heilnæmu fædu giæti almüga folk mikid sparad annan mat, en þar ed þad eptir einfelldni sinni, og gedþocka hefir skyn aa ad breyta til, og tilbua af aavextinum sæmiliga retti, þaa vil eg laata hiaa lida i þetta sinn ad skrifa ödrum sodreglur sem betur eru upplystir enn bondamugurinn; en þar aa mot leggia meira kapp aa ad gefa til vitundar hvernig, bædi þessi og adrar tegundir brukaz til almennra nota.

Ad baka braud af. Þessi aavoxtur, og sierilagi su Engelska tegundin, er so god og ypparlig til ad baka braud af, ad korn, ef skortur er aa Rugnum tekur honum ecki fram. Hver einn er giæta vill skynsemi sinnar maa iaata og vidurkenna ad braud af Kartoflum og Rugmeli rett tilbuid og

bakad

bakad hefur eins godan smeck, og iafn vel betri, eptir sumra medkenningu, enn gott, hreint og oblandad Rugbraud.

Adferdin er þessi: Madur þvær Eplin fyrst vel i vatni, sydur svo i potti þar til þau verda meyr og hellir seydinu ut, og hrærir sidan i med þvoru edur kreistir sundur med hendinni medan seydid er volgt, þangad til allt er ordid ad mauki. 1. Kutur Rugmels er nogur i hálfan annan edur 2 kuta af Eplum. Fiordapart melsins hnodar madur saman vid Kartoflurnar strax um kvolldid og lætur vokvan ráda siálfan sem i Eplunum er og hellir eingu vatni i melid. Surdeig og gier sem i er látid má ecki helldur vera eins mikid og i odru braudi. Miolid sem geymt var fra kvelldinu ádur skal madur taka um morguninn eptir, og hnoda saman vid hitt áminsta deig, baka sidan eins og annad braud.

Af ávextinum verdur og einnig brendt brennivin þegar menn vilia láta nockud saman vid af mallti er skedur á þennan hátt: Madur tekur þriá Fiordu parta af þvi korni sem ætlad var til brennunnar, og i stadinn þess sem ábrestur, Kartoflur. Til dæmis; 6 skieppur mallts og 4 skieppur af Kartoflum gillda vid eina tunnu korns eda mallts en madur fær þo hálfu meira brennivin af Kartoflum enn mallti med þvi moti ad malltid Til Brennivins.

 ein-



einsamallt fyrst se lœtid i umvellttukie rallbid (m) eins og sidur er til, er menn kalla Þuravellty (n), Þegar Þetta er buid eiga Kartoflurnar ad siodaz i vatni, hveriu madur hellir i œdurgreint kierallb og hrœrir Þar i, Þangad til Eplin moltna i sundur. Sidan er adferdin sem vanaleg, nema Þetta einasta er athugaverdt, ad Þegar allt er komid i ketilinn og hitna tekur, Þa hliota menn idugliga ad hrœra i svo Kartoflurnar sem eru Þungar i sialfum ser, nœi ecki ad setiaz a botninn. Eplabrennivinid smackar i vissu tilliti betur enn kornbrennivin.

Til Stifelsis. Af Kartoflum kann tilbuaz stifelsi fullkomliga eins gott ef ecki betra enn af hveiti, her til Þarf hverki mikla Kunst ne ervidi, og omakslaunin fyrir 16 pund Stifelsis verda her um 16 Skilldingar edur $7\frac{1}{2}$ Fiskar.

Kartoflurnar skolaz fyrst upp ur hreinu vatni, sidan rifur madur Þœr ofan i storan sa eda kerallb, hellir svo vatni ofan a Þad sem nidur er rifid hrœrir i, og lœtur Þar eptir standa kyrt her um 2 stundir. Þvi nœst er best ad hella ollu Þessu med vatni i Þyckva hœrsiu og hrœra sifellt i, Þa rennur stifelsid edur hveitimelid nidur ur siunni asamt vatninu, en

(m) Mœskekaret.
(n) Tor Mœskning.

en það stædsta verdur eptir og kastaz fyrir svin med ødru þesskonar. Menngeta og til hægri verka þrykt því sem nidur er rifid i gegnum poka ef sami er ecki allt øjgisinn.

Stifelsid hrærir madur upp i sama vatni og lætur það standa einn halfan dag edur og þar til stifelsid er sockid til botns, þaa hellir madur vatninu ut, og ødru ferſku i aptur, hrærir sidan i ad nyu þar til stifelsid er fallid til botns, og þetta gengur þangad til stifelsid er ordid hreint hvitt, og vatnid litaz ecki lengur upp yfir stifelsinu, sidan maa hella ut vatninu og laata stifelsid standa i haalfan dag, og þaa sker madur það upp ur ilaatinu med hnif, og breidir það ut aa Klædi til þerrirs annadhvert i vindblæ, eda heitu husi og allra sidazt aa kakalofni.

Ef vill, maa og stifelsid liggia og þorna hægt og hægt einn dag og þar eptir setiaz inn i bakaraofninn þaa braudid er tekid burtu.

Þetta er ætid athuga vert, ad stifelsid mæti ecki offsterkum þurkþi fyrstunni, sidan þolir það nockud meir. Það væri helldur ecki fiærri lagi ef mikid væri til, ad þurka stifelsid aa utþondum lereptsgrindum yfir elldglædum.



Þegar stifelsid er ordid þurt, lætur madur þad i sæld, so fer þad smæa nidur ur, en hitt verdur eptir er meliast æ med kefli og sigtaz i gegnum Silkislædur, til þess þad verdur ad hærpudurhveiti, hvert ad sonnu er brukanligt en þo þyngra enn annad og lodir verr vid. J hveiti braudum fer Kartoflu melid miklu betur med sig, enn Rug eda byggmel; af einni eplatunnu verda 16 pund stifelsis og stundum fleiri einkum ef brukadar eru þær storu gulu.

Auk alls þessa sem ædur er sagt eru Eplin og nytsamleg til ad ala æ allrahanda kvikfenad.

Nefniliga Svin. Svinin verda langtum feitari af Kartoflum enn ødru korni og betri ætu. Þau storu og mogru Svin mega hafa meira fodur enn feitu og litlu svininn. Handa 1 svini eru 4 tunnur Epla kappnogar. Þo er þorf ad Eplin ætid fyrst sieu sodin i vatni, og vatnid gefid svinunum med. Saman vid lætur madur þær so kolludu Bernii ef hun er til, en sie þad ecki, eru svinin eins ænægd; þo hefi eg vitad ad sæein fyrst framan af hafa þrioskast vid ad jeta. En þo mæ madur ecki læta undan, og gefa þeim annad fodur.

Osodin skemd og suin Jardepli eru nogu god handa þeim svinum er alast eiga allann





allann veturinn því þau þrífast af slíkri fæðu miklu betur enn korni.

Meyrsoðin Epli saman við saxaðan hælm er dæindis gott miolkur fodur fyrir kyr og fie. Fie og Kyr.

Hænsn, Endur og Giæsir þrífaz dægiliga og fitna af soðnum Kartoflum. Fugla.

Sama gildir einnig um hestana. Því margir af þeim eta Eplin osoðin medan þau eru litil eða skorin smætt i sundur með hnífi, þo er betra að blanda þeim saman við annað fodur, því þær meltast þau betur i maganum. Þetta sem her er umtalað hafa að sönnu ecki margir reynt, en þo veit eg þar uppæ nockur dæmi. J Englandi plaga menn að fodra pulsklæra og stundum reiðhesta með Gulum rotum. Hvi munu Jardeplin þær ecki vera i þessu tilliti eins goð sem bæði eru styrkiandi, langtum mielrikari enn tiedar rætur og þar að auki kostnaðar minni. Að minstakosti er sannprofað hversu hestarnir þrífast betur af Jardeplunum enn hafrafodri. Hesta.

Jeg vil ennnu setia Reikning upp og vita hvemikill æbatinn verður þær farið er að ollu sem æður er sagt. Æbati af Epla-feinginum.

Það er deginum liosara að ur tveimur tunnum Epla verður eins mikið Til Brauds.

braud og einni tunnu mels. Nu kostar 1 tunna mels 4 Rikisdali eda 1 stort Hundr. 50⅔ Fisk.

1 Tunna Epla hefur hingad til fem-dyrst kostad 5. eda 6 mork, og latum badar tunnurnar kosta 2 Rikisdali, edur 85⅓ Fisk. Pad er haalfu minna enn melid, og ein tunna Epla uppaa þann maata gefur 2 Rikisdali, og þar ed 1 tunna mels er nog ad laata saman vid 2 tunnur Epla, sparar madur 2 Rikisdali vid hveria tunnu mels, sem ætlud var til braudsins.

Eda er þetta ecki stor hægd og budryginndi fyrir fatæka i þessari aaran. Kostnadurinn og omakid med ad tilbua Kartoflurnar, er ecki meiri enn melmolunin.

Af tveimur tunnum Epla fær madur so mikid brennivin sem tveimur tunnum mallts. Brennivins.

Malltid kostar 16 mork; laatum vera ad hver tunna Epla kosti 5 eda 6 mork, so er þo aabatinn 4 mork og fram undir einn Rikisdal, og uppaa þann maata fær madur fyrir eina Epla tunnu tvo sletta dali.

Af einni tunnu Epla verdr 1 fiordungur og 12 merkur Stifelsis, sem er ad verdaurum 2 Rikisdalir. Seu nu Eplin 5 eda 6 marks virdi, og omaks launin 2 mork, þad er 1 mark sem adur er sagt fyrir hveriar 16 merkur. Verdur ábatinn á hverri tunnu þegar kostnadurinn er frádreiknadur herum 4 eda 5 mork, þad er i allt 10 mork. Stifelsis.

Látum oss iafna Hveiti og Kartoflu stifelsinu saman og siá hversu stor mismunurinn er. Madur fær af godri tunnu hveitis 8 merkur og 6 fiordunga edur ad mestalagi 4 merkur og 7 fiordunga stifelsis, og eins mikid af 2 tunnum epla. Nu kostar 1 tunna hveitis 4 Rikisdali, en Jard-Eplin ecki meira enn 2 Rikisdali, so er audsiáanligt ad ábatinn er trofallt meiri af Kartoflunum enn hveitinu; og væri þá ecki betra ad bruka hveitid til annars? Hvaraf ráda má ad monnum væri miklu betra ad tilbua allt sit stifelsi af kartoflum enn hveiti.

Ad rifa nidur svo miklar Kartoflur sem þarf til verksmidia (o) stifelsis helld eg væri ofur mikil og kostnadarsom fyrirhofn; menn ættu þarfyrir i þess stad ad mala ávoxtinn med litilli Mylnu svo smátt sem annars er vándi til. En spursmál hvert litlar og margar verksmidiur væri

(o) Fabriquers.

 

værí ecki betri enn faiar stórar? eda hvert mundi fatækur almugi konur og börn heima hiá siálfum ser ecki geta án stórs kostnadar ristid nidur fæeinar Epla tunnur i Stifelsi? og hversu stórt gagn og abati væri þad ecki ef þessháttar folk siálft ætti akurkorn til ad sá Eplunum i? Eda mundi þad þá ecki geta sellt Stifelsid fyrir minna verd enn adrir, og þo hafa rikugligt upphelldi.

Til ad ala fenad þarmed. Abatinn af ad ala Svin á Eplum, liggur einnig i augum uppi. Fiorar tunnur hafra duga valla til ad ala eitt magurt Svin á, 1 tunna hafra kostar 7 = 8 og iafnvel 9 mörk. Og i þann máta þyrfti madur ad kosta herum 5 Rikisdolum uppá ad feita eitt Svin. Vili madur kaupa baunir sem bædi eru driugar og standa vel undir i þessu tilliti, þá ganga þo upp ad minsta kosti 2 tunnur er kosta allt eins mikid. Fiorar tunnur Epla sem duga nog til ad ala 1 Svin á kosta 20 eda 24 mörk. Hvar af kemur ad madur sparar 6, 8, edur iafnvel 10 mörk vid ad ala hvert. Og ein tunna af Eplum verdur þo uppá sidkastid 7 edur 8 marks virdi. Um annan fenad er getid ádur, og Eplanna nytsemd áudurskird i þvi tilliti.

Vili nockur segia ad þessi minn Reikningur se grundadur á þessarar oalldar korns dyrleika, og þaraf fliotandi abati

aabati verdi miklu meiri enn annars, þaa medkenni eg ad þetta er satt; þvi Eplanna stora nytsemd sem eru obrigdulari enn kornid, og opt koma ser vel þegar þetta brestur, er þaraf olldungis audsiaaanleg.

Þvi næst er þetta adgiætandi ad þar eg hefi reiknad Eplin dyrara enn vera ætti, ef almenningur hefdi nog þaraf, so mun minn Reikningur þo sannast aa medelmaata kornaarum; og laatum nu kornid alldregi vaxa svo vel, þaa mun þo Eplagnægdin koma morgum til ad spara kornid og færa til annara landa, eda geyma til i hallæristidinni. Hefdu eingin Jardepli verid i Þyskalandi þegar stridid var seinast, þaa mundi bædi herenn og alþyda hafa daaid af hungri og braudleysi.

Af þessum Reikningi sem allur er grundadur aa eigin reynslu, og hver einn skal prosa og sanna rettan ad vera; maa siaa hversu nytsamur tiedur aavoxtur er, og hversu inniliga oskandi væri ad sami mætti dyrkast af alþydu og utbreidast almenningi til nota.

Eg er olldungis saattur ef þetta kver med Selskabsins tilstyrk fær i nockru hiaalpad þartil.



